# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, MAÍ 1900. Nr. 3.

## Allt eins og blómstrið eina.

Hinn mikli sálmr Hallgríms Pétrssonar um dauðann í nýjum enskum búningi eftir *meistara Eirík Magnússon.*

1. E'en as a floweret, growing
   On a smooth meadow-side,
Fair in fresh blossom showing
   First in day's morning-tide,
That one stroke earthward sendeth,
   In one brief moment's span,
With leaves and hues—so endeth
   Swiftly the life of man.

2. As tender childhood speedeth
   O'er death's uncertain ways,
Old heavy age proceedeth :
   All run the selfsame race.
Sealed term for life's fruition
   Was ne'er vouchsafed to men,
All bide the one condition
   Hence to depart again.

3. Death, in good sooth, appeareth
   A mower like, meseems,

Who, swiftly mowing, sheareth
What in his way there teems ;
The grass, green herbs, the glowing
Fair floweret and the reeds,
The sedge, the roses blowing,
As things of nought he heeds.

4. Man's life still onward glideth
With speed that ne'er abates,
Till death's grim grip it bideth,
Whereas the grave awaits.
The world's paths all tend hither
Towards this selfsame spot,
And lief or loath wends thither,
Be sweet or sad his lot.

5. Before no power, no station
Will death one step recede,
Nay, for no fair oblation
One moment's pause concede.
Him it no way concerneth,
How grieved or glad thou art ;
No prayer, no passion turneth
His fiercely ruthless heart.

6. Amidst bewildered reason
Men sway, for nought they know,
How, where, or at what season
His presence death may show.
One path to all men lendeth
Entrance to this world's home,
But variously there wendeth,
Meseems, the way therefrom.

7. Death's power alike afflicting
All whom this world doth own,
Why should thought dare predicting

He'd spare but me alone?
Lo, Adam's nature truly
Pervades my flesh from birth,
And I have earned it duly
Again to turn to earth.

8. By right or plunder never
This earthly life I found;
On loan, as 't were, is ever
Soul unto body bound.
In the Lord's hand e'er rested
To claim of me his loan;
Death, one may say, 's entrusted
To fetch the Maker's own.

9. In God's name then — beholding
What need besets me now!
I'm not their peer, whom folding
The earth guards dead below.
When comes the call, none cited
May ever buy him free;
The night I face benighted,
No fear disturbing me.

10. I know there lives in heaven
My Savior dear, the One
To Whom all rule is given,
Named Jesus, He alone.
Death's very Conqueror, dying
Upon the Cross, His strife
To me, in misery lying,
Made sure eternal life.

11. Death by His own death doing
To death, He won the day;
Death's might and strength undoing,
He rendered safe my way.

The body in earth abiding
My soul yet liveth free,
No hardship her betiding
In heaven's felicity.

12. Of Jesus e'er I mind me,
I leave me in His keep,
Whether in or out I find me,
Awake or yet asleep.
My help and my affiance
He is, my very life,
He is my heart's reliance,
He soothes in death my strife.

13. To Jesus I betake me,
In Jesus' name I die;
Though health and life forsake me,
No fear of death have I.
O death, no more I dread thee,
Thy force, thy mighty power;
In Christ's strength now I bid thee,
Come hail at thine own hour.

---

## Nýja kverið.

Eftir séra N. Steingrím Þorláksson.

Eg hefi fyrir löngu lofað að rita lítið eitt í ,,Sam." um þetta ,,kver" eftir norska prestinn Thorvald Klaveness; en ýmsra hluta vegna hefir ekki orðið neitt úr því fyrr en nú. Þetta er ástœðan fyrir því, að ,,Sam." hefir til þessa þagað um kverið.

Þegar eg fyrst frétti, að verið væri að þýða kver þetta, var eg á báðum áttum, hvort eg ætti að láta mér þykja vænt um eða ekki. Eg þekkti það sem sé dálítið á norsku, og vissi, að það hafði fengið góðar viðtökur í Norvegi. Það kom fyrst út árið 1892. En þegar það var gefið út í endrskoðaðri útgáfu árið '98, var búið að selja 56 þúsund eintök af því, og

hið nýja „upplag" var 10 þúsund. Þó hafði kverið þurft að keppa við 5 eða 6 önnur kver, gömul og ný. En eg vissi til þess, að Klaveness var sjálfr óánœgðr með kver sitt, ekki að eins eins og hver samvizkusamr maðr er ávallt með ófullkomið verk sitt, heldr vegna þess að hann við samning kversins þóttist ekki hafa getað farið eftir hugsjón sinni á því, hvernig kennslubók í kristindómi handa börnum ætti að vera. Sökum kirkjulegra ástœðna í Norvegi þurftu Frœði Lúters hin minni að leggjast til grundvallar. Hann áleit sig við það bundinn, enda lýsti yfir því, að eins lengi og binda þyrfti sig við Frœðin og þau að leggjast til grundvallar, væri ekki unnt að semja kver handa börnum eins og það ætti að vera. Af þessum ástœðum og vegna þess eg áleit, að vér þyrftum að fá nýtt kver, hafði eg hugsað mér að fara þess á leit við Klaveness prest, hvort hann myndi ekki vera fáanlegr til þess að semja kver handa íslenzku kirkjunni samkvæmt sinni hugsjón á kristilegri barnalærdómsbók. Því hjá oss þurfa Frœði Lúters ekki að vera neinn þröskuldr að þessu leyti; því þau hafa ekki verið lögð til grundvallar hvorki fyrir kveri Balles né kveri séra Helga. En nú, þegar kver Klaveness var komið út á íslenzku, gat ekkert úr þessu orðið, að minnsta kosti fyrst um sinn. Samt sem áðr þykir mér vænt um, að vér eigum nú á íslenzku þetta kver, og er forstöðumanni prestaskólans í Reykjavík, séra Þórhalli Bjarnarsyni, sem hefir íslenzkað það, mjög þakklátr fyrir. Hann hefir með því unnið kirkju vorri og kristindómnum hjá oss þarft verk.

Kver séra Helga heitins Hálfdanarsonar er ekki barnalærdómsbók, þótt hún sé svo kölluð. Séra Helgi hefir ekki kunnað að rita fyrir börn. Hœfilegleika til þess hefir hann ekki átt, þrátt fyrir góða og mikla hœfilegleika aðra hjá honum. Átti hann að því leyti sammerkt við svo marga aðra ágætismenn. Kverið, sem notað hefir verið um langan aldr í Norvegi og enn er að kalla eina kverið á meðal Norðmanna hér í landi, er alveg ótœkt kver handa börnum, og væri fyrir löngu komið á forngripasafnið, ef Norðmenn væri ekki, kirkjulega, aðrir eins dauðans íhaldsmenn og þeir eru. Eg fæ mig

því ekki til þess að trúa öðru en að hver óvilhallr maðr, sem ber saman þessa tvo kristilegu barnalærdóma, eftir séra Helga og Klaveness, hljóti að finna til þess, að hinn nýi eftir Klaveness sé betri barnalærdómr. Hann gjörir kristindóminn miklu ljósari. Barnið, sem les hann, hlýtr að skilja betr, hvað sé að vera kristinn maðr og að halda skírnarsáttmálann sinn, en barnið, sem les hinn barnalærdóminn. Með nýja barnalærdómnum kemst kristindómrinn nær barninu, og nær betr að verða eign þess, bæði að því, er skilning þess snertir og hjarta. Frá upphafi til enda er þar talað um kristindóminn sem líf í guði, sem barnið skírða og hver kristinn maðr þurfi að lifa, ef það og hann eigi ekki að glata guði og um leið glata sannri sælu sinni um tíma og eilífð. Barnið er látið finna til þess, að nú eigi það ekki að lesa kverið sitt eingöngu til þess að læra svo og svo mikið *um* guð, heldr eigi það aðallega að lesa kverið, svo það læri að lifa lífinu í guði, læri að lifa sem guðs barn og að halda skírnarsáttmálann sinn. Sömuleiðis til þess, að það, með því að lifa hér sem guðs barn, í samfélagi við guð, verði ekki að eins aðnjótanda sælu á himnum eftir dauðann, heldr verði það hennar einnig aðnjótanda hér á jörðunni: — að það, með öðrum orðum, sé mannsins sanna sæla, heill og hamingja, að lifa með guði, í samfélagi við hann, þessa heims og annars.

Framsetningin er þar ljósari en í kveri séra Helga, einfaldari, innilegri, og í alla staði betr við hœfi barnsins. Það hlýtr sjálft að verða betr með. Spurningarformið hjálpar til. Það verðr ætíð hið eðlilegasta, í einhverri mynd þess að minnsta kosti. — Má vera, að eðlilegast væri og gæfi bezta trygging fyrir því að barnið yrði skilningslega með, ef spurningarnar væri neðanmáls, en lesmálið eða lærdómrinn samanhangandi, svo að efnið yrði ekki bitað svona í sundr eins og siðr hefir verið, — og barnið svo látið sjálft finna svarið. — Þá eru líka spurningarnar persónulegar, þar sem því verðr við komið. Það er talað persónulega við barnið um kristindóm þess. Það finnr til þess, að hann er ekki eitthvað fyrir ofan skýin, heldr er hann líf, er á að slá sem andleg og eilíf lífæð við hjarta þess.

Hvað mér hefði þótt vænt um, ef eg sem barn hefði átt kost á að lesa þetta kver. Eg er viss um, að kristindómrinn hefði þá orðið mér ljósari og að persónulegri eign minni fyrr en varð. Og að hann hefði ekki staðið fyrir mér svo lengi eins og eitthvað, sem aðallega þyrfti að læra og kunna og svara upp á — og því aðallega *fyrir utan mig* meðvitundarlega. Að öllu leyti fást aldrei bœtr á tjóni því, sem maðr verðr að bíða af öðru eins.

Sem dœmi vil eg benda á ávarpið til barnsins í upphafi kversins og þrjár fyrstu spurningarnar ásamt með 83. og 84. sp. Barnið er þegar vakið til umhugsunar um skírnarsáttmála þess. Hugr þess leiðist að skírninni — þess eigin skírn. það er eins og við það sé sagt: ,,þú fékkst ekki að eins nafn þá. Ef til vill hefir þú hugsað um skírnina að eins á þann hátt? Nei, barnið mitt; þú varzt að guðs barni í skírninni. Og svo átt þú að lifa sem guðs barn. En sem guðs barn lifir þú ekki nema þú haldir skírnarsáttmála þinn. En þú heldr hann ekki með því að eins að læra að vita, í hverju hann er fólginn. þú þarft sjálft að afneita djöflinum, öllum hans verkum og öllu hans athœfi, og trúa á föðurinn, soninn og heilagan anda. Í fyrsta parti Frœðanna lærir þú um það, hvað það sé að afneita djöflinum. þú lærir þar, að þú eigir að gjöra vilja guðs og vera hlýðið barn hans. þá afneitar þú djöflinum. En þegar þú brýtr á móti vilja guðs og ert óhlýðið og vont barn, þá gjörir þú verk djöfulsins. En er ekki djöfullinn og hið vonda ofrefli þitt? Getr þú afneitað því stórveldi? þú stendr ekki einmana uppi, barnið mitt. Hinn þríeini guð er með þér og veitir þér mátt til þess að afneita öllu illu, ef þú í trúnni heldr þér til hans. það er ekki þýðingarlaust fyrir þig að trúa. þú getr að eins þá verið gott barn og góðr maðr, þegar þú trúir. Fyrir trúna lifir þú í samfélagi við guð. Og fyrir samfélag þitt við guð fœrðu löngun og mátt til þess að gjöra vilja guðs, en afneita öllu óguðlegu athœfi. þá lifir þú sönnu og sælu lífi. Svona mikið er í það varið að trúa. En þú þarft sjálft að trúa. Í öðrum parti Frœðanna lærirðu nú um trúna.''

Af þessu sést, hvernig skírnarsáttmálinn í eðlilegu sam-

hengi hans verðr skýrðr fyrir barninu í sambandi við fyrsta og annan part Frœðanna.

Svo eg minni á eitt enn, þá þykist eg vera viss um, að hver, sem les t. d. kaflann út af 3. grein trúarjátningarinnar — er hljóðar einmitt um það, sem erviðast er í barnalærdóminum — og les svo samhliða tilsvarandi kafla í kveri séra Helga, mun ekki verða í neinum vafa um það, hvor kaflinn gjöri kristindóminn ljósari. Þótt maðrinn hafi lært Helga kver, þá hygg eg, að hann standi upp frá lestrinum á þeim kafla í kveri Klaveness, hafi hann lesið með eftirtekt og alvöru, með skýrari sjón á því og hjartanlegri tilfinning fyrir því, hvað sé að vera kristinn maðr, en hann hafði áðr.

Ef safnaðarfólk vort hefði lært kristindóminn á kver Klaveness, hygg eg, að umtalsfundir vorir um aftrhvarfið síðastliðið haust hefði orðið uppbyggilegri. Hluttaka leikmanna hefði orðið betri og sumir þeirra ekki álitið umtalsefnið eins óþarft og víst átti sér stað.

Það er vandi að spyrja börn svo, að vissa sé fyrir því, að þau skilji, að hverju er spurt. Og það er vandi að gefa einfalt svar, er á við þroskastig barnsins og hjálpar því verulega til að skilja. Klaveness kann að spyrja börn og að tala einfaldlega við börn. Kverið hans sýnir það. Spurningarnar eru eðlilegar og svörin vanalega stutt og einföld. Og svör þurfa að vera hvorttveggja. Börn hafa ekkert að gjöra við löng og þung svör. Svörin eiga að hjálpa barninu til að skilja og svara, en ekki til þess að þylja eitthvað, sem það skilr ekki. Það væri því misskilningr og vanbrúkun á kverinu, ef heimtað væri af barninu að gefa svörin, sem þar standa, orðrétt. Svörin eiga að kenna barninu að skilja, og að gefa rétt svör, hvort heldr þau gefa svörin að öllu eða sumu leyti með eigin orðum. Og að því, er ritningarstaðina snertir, þá getr ekki verið rétt að ætlast til þess, að börnin læri þær greinir allar, nema ef til vill, ef sérstaklega vel stendr á með námshœfileika þeirra.

Það hefir verið fundið að því af einum þeirra, er um kverið hafa ritað, að Klaveness þegir alveg í kveri sínu um eitt atriði í annarri grein trúarjátningarinnar, sem sé um niðrstigning

frelsarans til helvítis eða — eins og þetta orð merkir þar — til ríkis dauðra manna. Þetta hljóti að skilja eftir ,,glompu" í trúarþekking barnsins. En eg er alveg viss um, að engu barni verðr sú ,,glompa" tilfinnanleg. Líka er það miklu betra að lofa ,,glompunni" hreinlega að vera en að klessa einhverju í hana, sem barnið alls ekkert skilr í. Það mætti sannarlega miklu fremr finna að því, að Klaveness þegir yfir hinum mismunanda skilningi hinna ýmsu kirkjudeilda á nálægð líkama og blóðs Jesú Krists í altarissakramentinu. Hann hefir sjálfsagt álitið, að hvorki það né hitt, eins og svo margt annað, ætti heima í barnalærdómsbók. En vitanlega getr mönnum sýnzt misjafnlega um það, hvað taka eigi með og hvað ekki.

Þá er að minnast lítið eitt á hina íslenzku þýðing eftir séra Þórhall Bjarnarson á kveri þessu. Og verð eg þá að segja, að eg hefði í sumu kosið hana betr af hendi leysta. Kverið er þyngra á íslenzku en á norsku, — er ekki í þýðingunni eins góðr *barnalærdómr*. Það hefir tapað, að því, er einfaldleik snertir. Þýðarinn hefir ekki verið nógu nærgætinn við börnin, ekki sett sig nógu vel inn í hugsunarlíf þeirra. Að því leyti hefir hann ekki verið nógu vandvirkr, þótt hann að öðru leyti hafi vandað málið. Það virðist eins og hann hafi hugsað meir um *fallegt* mál, eftir algengum íslenzkum hugsunarhætti, en um *einfalt* mál, er kœmist sem næst barninu og yrði því auðskilið. Sem sýnishorn bendi eg t. d. á: ,,ganga á heit sitt" (21. sp.), ,,baka mér samvizkubit" (75), ,,hugarrósemi og sálarfriðr" (90), ,,hérvistardagar" (118), ,,Hvernig starfar þá áfram hið guðdómlega almætti hans?" (137)—barnið að eiga að hugsa um *eiginlegleika* sem starfandi! — ,,gjalda varhuga við" (226), ,,oftlega" (235) — það er eins og verið sé að setja sig út til þess að gjöra ,,kúnstir" — ,,stundum að lifa guðs vilja samkvæmt" (278). Er ekki hœgt á íslenzku að viðhafa orð og orðatiltœki, sem barnið nær betr í? Við 123. spurning stendr: ,,til þess að heimrinn yrði hólpinn". Lægi ekki nær að segja: ,,til þess að frelsa heiminn"?

Það virðist á einstöku stað eins og þýðandinn hafi ætlað

sér að gjöra betr en höfundrinn. Þannig segir höfundrinn (120): „dásamleg kærleiksverk", en þýðandinn: „yfirnáttúrleg kærleiksverk". Og í svarinu upp á 27. spurning segir höfundrinn, að Jesús hafi risið upp frá dauðum með hjálpræði og eilíft líf. Þýðandinn segir: „oss til eilífrar sáluhjálpar". — Vil leyfa mér að benda á, að jafnframt því, að Jesús reis upp oss til eilífrar *sáluhjálpar*, þá reis hann sömuleiðis upp *líkama* vorum til eilífrar hjálpar. — Þá segir höfundrinn í svarinu upp á 125. sp.: „Djöfullinn kom þeim til þess að negla guðs eingetinn son á kross, hið versta píslarfœri, er þeir höfðu til." — Þýðinguna geta menn lesið. 50. spurningin hljóðar svo hjá höfundinum: „Með hverju spillir *þú*" o. s. frv. Og svarar: „Það gjöri *eg*" o. s. frv. Þýðandinn aftr á móti spyr: „Hvernig spilla *menn*" o. s. frv. Og svarar: „Það gjöra *menn*" o. s. frv.

Svarið upp á 157. spurning kemr undarlega við. Þar er barninu sagt, að kirkjan sé kölluð *almenn*, af því að Jesús Kristr vilji, að öllum sé boðið að gjörast meðlimir hennar. En svo er barninu *líka* sagt, að kirkjan sé kölluð *kristileg* af sömu ástœðu, þ. e. a. s.: af því að Jesús Kristr vilji, að öllum sé boðið að gjörast meðlimir hennar. Orðið „kristileg" veldr að eins ruglingi barna. Enda hefir þýðandinn skotið því inn í svarið sjálfr, vegna þess að hann breytti spurningunni samkvæmt íslenzku þýðingunni á 3. gr. trúarjátningarinnar. Hér stendr eins og kunnugt er: „heilög, almenn, kristileg kirkja", sem er rangt. Ætti annaðhvort að vera: „heilög kristileg kirkja" eða: „heilög almenn kirkja". Hið síðara þó hið réttara. Og svo er það í norsku þýðingunni. Þess vegna er spurningin hjá höf.: „Hvers vegna er kirkjan kölluð almenn?" Og svarið því samsvaranda. Úr því þýðandinn áleit nauðsynlegt að taka með orðið „kristileg", hví þá ekki að bœta við nýju svari og geta um það á einhvern hátt eða alls ekki geta um það. Það hefði sannarlega ekki verið meira um það að segja en um það, að hann fellir alveg þegjandi *burt* úr kverinu tvær spurningar, sem sé úr kaflanum út af 2. boðorðinu, vegna þess að boðorðið er lengra í norska kverinu en í útlegging séra Helga heitins Hálfdan-

arsonar á Frœðunum. En þá þýðing hefir séra þórhallr Bjarnarson tekið inn í þýðing sína á kveri Klaveness. Í norska kverinu er þetta: ,,því drottinn mun ekki láta þeim óhegnt, sem fer gálauslega með hans nafn", og tvær spurningar út af því.

Eg hefi orðið var við eina prentvillu. Í ritningargreininni við 127. sp. hefir *er* fallið burt. Við 91. sp. á tilvitnanin Sálm. 19, 1—7 að vera 1—6. Versatalan í íslenzku biblíuþýðingunni á þessum stað er ekki eins og í norsku biblíuþýðingunni. Á þetta hefi eg rekið mig.

Stóran galla tel eg það, að séra þórhallr hefir ekki látið bœnir fylgja kverinu. Í Norvegi var engin ástœða til þess, vegna þess að þær fylgja þar Frœðunum, sem út eru gefin sérstök. En hjá oss stendr öðru vísi á.

---

## Tvær missíónarferðir.

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.

Eftir að eg kom úr missíónarferðinni til Alberta, sem frá er sagt í Marz-blaði ,,Sam.", ferðaðist eg í sömu erindum til Nýja Íslands og byggðanna austr frá Manitoba-vatni, Álftavatns-nýlendu og Grunnavatns-nýlendu.

I.

Í ferðinni til Nýja Íslands var eg um þrjár vikur, fór á stað frá Winnipeg 21. Febrúar og kom þangað til baka 14. Marz. Í þessari ferð flutti eg alls ellefu guðsþjónustur, skírði átta börn, jarðsöng eina konu og eitt barn, fermdi eina stúlku.

Í Mikley hafði eg aldrei komið fyrr en í þessari ferð. þar flutti eg guðsþjónustu á sunnudaginn 4. Marz í kirkju safnaðarins. Sú kirkja, þó hún sé enn ekki vígð, var fullgjörð, eins og hún nú stendr, áðr en séra Magnúsar fráfallið kom fyrir. Voru Mikleyingar að því leyti komnir lengra í kirkjulegri starfsemi en nokkrir aðrir í Nýja Íslandi. Og yfir höfuð má segja, að þeir hafi ávallt síðan varizt betr í hinni kirkjulegu baráttu sinni en víðast hvar annarsstaðar hefir átt sér stað í Nýja Íslandi. þetta vantrúar-fargan varð nefnilega víðast hvar annarsstaðar eins og snjóflóð, er sópaði því sem næst öllu með

sér. Því þeir, sem ekki gengu í lið með Únítörum, voru samt víðast hvar svo dasaðir af áhrifum flóðsins, að þeir urðu afllausir til lúterskra framkvæmda; og þetta ástand hefir allt að þessu einkennt Nýja Ísland að miklu leyti, að undanteknum Brœðrasöfnuði við Íslendingafljót. En þetta varð ekki þannig í Mikley. Þótt meiri hlutinn sópaðist þar með í snjóflóðinu eins og annarsstaðar, þá voru þó fáeinir menn, sem flóðið gat ekki fellt. Þeir stóðu uppi í baráttunni og hugðust halda áfram sínum lúterska söfnuði, hvað sem á kynni að dynja. Þeir voru einbeittir og samtaka, hafa haldið söfnuði sínum í góðu lagi og verndað vel réttindi hans. Í vetr var skotið saman fé til að gjöra við kirkjuna, og tóku margir utansafnaðarmenn þátt í þeim samskotum. Í missíónarsjóð kirkjufélagsins lögðu Mikleyingar ríflegar en nokkurt annað byggðarlag í Nýja Íslandi.

Í ferðinni mynduðust nýir söfnuðir í Breiðuvíkinni og á Gimli, og samþykktu þeir báðir ákvæði um það, að ganga í kirkjufélagið. Í hinn síðarnefnda voru innritaðir um 60 fermdir meðlimir. Enn fremr voru á ný ,,organséraðir" söfnuðirnir í Árnesbyggð og Víðinesbyggð, og einnig byrjað á hinu sama með Fljótshlíðarsöfnuð, þó það væri ekki komið eins langt. Allir þessir söfnuðir standa í kirkjufélaginu, þótt um tíma hafi það verið nafnið tómt. Á öllum þessum fundum til að stofna og endrreisa söfnuði voru menn sáttir og sammála og einhuga í því, að uppbyggja kristilegan félagskap meðal sín.

En nýgrœðinginn verðr að vernda.

Söfnuð séra Odds V. Gíslasonar, Brœðrasöfnuð, heimsótti eg; prédikaði þar miðvikudaginn 7. Marz. Prestr safnaðarins var þá ekki heima, og hitti eg hann ekki fyrr en á Gimli, er eg var á suðrleið.

## II.

Í ferðinni um Álftavatns-nýlendu og Grunnavatns-nýlendu var eg að eins rúma viku. Fór eg þangað frá Winnipeg 22. Marz og kom til baka 30. s. m. Á þeim tíma hafði eg tvær guðsþjónustur, sína í hvorri byggð, og skírði 14 börn.

Tíminn var langt um of stuttr, og var því lítið unnt að gjöra. En vegna þess eg endilega þurfti að vera kominn til þingvalla-nýlendu í Assiniboia fyrir lok Marzmánaðar var mér ómögulegt að dvelja lengr í byggðum þessum.

Mjög lítil félagsleg starfsemi í kristilega átt hefir enn komizt á í þessum byggðum, og er þó kominn fullkomlega tími til þess, að eitthvað væri farið að vinna meðal fólksins og af fólkinu sjálfu. Frá því eg hafði komið í byggðina næst áðr sá eg hjá sumum talsvert mikla framför í veraldlegum efnum; en í kirkjulegu tilliti stendr allt í stað. Sumir að minnsta kosti finna þó til þess, hvað þetta er leiðinlegt. Á leiðinni út í byggðirnar hitti eg einn nýlendubúa, sem sagði mér, að þegar hann hefði verið í Winnipeg, hefði hann ekki verið meiri kirkjumaðr en svona fólk flest, en sér væri farið að leiðast þetta prestleysis-líf þarna úti.

það er kominn tími til þess, að byggðirnar í kringum Manitoba-vatnið fari að stofna söfnuði og í sameining kalla sér prest. Í kringum það vatn er nú orðið svo margt af Íslendingum í all-góðum efnum, að þeim væri ekki um megn að halda lífinu í einum presti.

Við sunnudagsskólahald hefir í seinni tíð nokkuð verið átt í hvorritveggja byggðinni. Í Álftavatns-nýlendunni hefir það verið reynt síðastliðin tvö sumur, en það fyrirtœki hefir ekki verið styrkt af sveitarmönnum eins og hefði átt að vera. þeir Íslendingar, sem búa austanmegin við Grunnavatn, hafa og félagskap með sér í þá átt að halda uppi húslestrum á sunnudögum. Er lesið hjá hinum ýmsu búendum til skiftis. Í sambandi við lestrinn er svo ætíð hafðr sunnudagsskóli. Og er hvorttveggja þetta gott og þakkarvert. Um þennan sunnudagsskóla Grunnvetninga, sem kenndr er við Markland, póstafgreiðslustöð eina á austrströnd vatnsins, er skýrsla í Marzblaði „Kennarans". Og sést þar, að á árinu, sem leið, hefir skóla þessum verið haldið í gangi stöðugt frá því í Maí til ársloka.

---

## Ný Íslendinga-byggð

og missíónarferð þangað. Eftir séra Jónas A. Sigurdsson.

---

Um ferð mína til Íslendinga í grennd við Morden, Man., get eg í flýti sagt þetta:

Landnám þetta er í *Municipality of Stanley*, Manitoba, rétt fyrir norðan landamerkjalínu Bandaríkjanna — norðr af Cavalier County. það eru ekki fullar 20 mílur norðvestr frá Walhalla, N.-Dak., inn til íslenzku byggðarinnar, og álíka langt er hún í suðr frá Morden, Man. Byggðin hófst, sem íslenzk byggð, síðastliðið vor. Og nú mun vera þar nálægt 30 ísl. landnemum. Áðr höfðu Mennonítar dvalið á þeim stöðvum, og eru all-margir þeirra þar enn. Byggðin hefir enn ekkert sérstakt ákveðið nafn og ekkert pósthús. Fá byggðarmenn bréf sín ýmist til Morden, eða á pósthús sunnan ,,línunnar" í Cavalier Co., sem Numedahl heitir. Flestir landnemarnir eru héðan úr Dakota-byggðunum. Auk þeirra, sem numið hafa þar land, eru nokkrir nú að kaupa þar bújarðir.

Föstudaginn 6. Apríl ók eg að heiman og inn til byggðarinnar. Dvaldi eg hjá fornvini mínum Jóni Sigfússyni. Daginn eftir fór eg talsvert um byggðina og hitti að máli gömul sóknarbörn mín. Veðr var hið blíðasta og slarkfœrt um sveitina, þótt vegir sé enn engir. Á pálmasunnudag hafði eg guðsþjónustu í húsi, er Mennonítar eiga og hagnýta fyrir bœnahús og til skólahalds. Flestir byggðarmanna sóttu þangað. Við þá guðsþjónustu gengu um 20 manns til altaris. Eftir messu skaut eg á fundi með mönnum. Var samþykkt, að mynda söfnuð, og gengu í hann alls 79 manns. Var söfnuðrinn nefndr ,,Hinn ev. lút. Guðbrandssöfnuðr", og er hann heitinn eftir Guðbrandi þorlákssyni Hólabiskupi, þeim manni, er hin lúterska kirkja Íslands hefir átt einna ágætastan. Treysti eg fyllilega, að eins og hann gaf þjóð vorri fyrstr manna biblíuna í íslenzkri þýðing, þannig geymi þessi söfnuðr allt guðs opinberaða orð hinum íslenzku afkomendum.—Lög fyrir söfnuðinn voru þá samþykkt, sömuleiðis grundvallarlög kirkjufélagsins, og mér falið að sœkja um inngöngu í kirkjufélagið fyrir hönd safnaðarins. Í safnaðarstjórn, sem kosin var, urðu þessir menn: Jón Sigfússon, þorsteinn J. Gíslason, Sigfús S. Bergmann, þórðr Árnason og Tómas Jóhannesson. Allt þetta verk gekk svo greiðlega og ánœgjulega, að fágætt má teljast. Fundrinn stóð yfir um klukkustund.—Enda hefir í nýlendu þessa flutt sannkristið myndar-

fólk, sem ágætasta þátt hefir tekið í safnaðarstarfseminni hér syðra áðr en það flutti norðr þangað.

Tvö börn skírði eg í ferðinni.—

Ekki þarf að taka frekar fram, hvernig menn tóku mér og erindi mínu. Það var ómögulegt að gjöra það betr. Varð ferðin og guðsþjónustu-samkoman mér til stór-gleði.

Eg heyrði sagt, að til orða hefði komið, að byggðarmenn fengi pósthús, er nefna ætti *Skálholt*, og verðr svo vafalaust byggðin nefnd eftir því. Tel eg það eiga ágætlega við, að söfnuðr sveitarinnar sé heitinn eftir höfuðmanni Hólastóls, en sjálf byggðin eftir hinum fornfræga andlega höfuðstað ættjarðar vorrar. Guð blessi ,,Skálholts-byggð" og Guðbrands-söfnuð!

---

,,Sameiningin" á því láni að fagna, að geta í þetta skifti lagt fram fyrir lesendr sína hinn göfuga sálm Hallgríms Pétrssonar ,,Allt eins og blómstrið eina" í enskri þýðing eftir hr. Eirík Magnússon, A. M., í Cambridge. Þýðing þessi er ný og er hér fyrst prentuð. Og erum vér þess fullvissir, að þeir allir, sem annt er um heiðr íslenzkra bókmennta, verði hinum háttvirta þýðanda hjartanlega þakklátir fyrir þetta verk hans. Því þýðingin er framúrskaranda meistaraverk. Fyrsta hugsan vor, er vér höfðum lesið sálmsþýðinguna til enda, var þessi: Svo myndi Hallgrímr sjálfr kveðið hafa, hefði hin enska tunga verið móðurmál hans. Og þessi hugsan hefir orðið fastari og fastari hjá oss, því oftar sem vér höfum skoðað sálminn í þessum nýja og tígulega búningi. Þetta er alls ekki nein lausa-þýðing, eins og allir hljóta undir eins að sjá, er þeir bera þýðingarverk þetta saman við frumsálminn. Frumsálmrinn heldr sér algjörlega í hinni þýddu mynd hans, — heldr sér svo vel, að hvert einasta smá-geislabrot í trúarhugsunum höfundarins kemr út í þýðingunni, og orðalagið íslenzka sömuleiðis. En í annan stað er hinn enski búningr sálmsins svo vandaðr, að allsendis ekkert er þar, er af verði ráðið, að þetta sé þýðing.

Sálmrinn ,,Allt eins og blómstrið eina" er konungrinn meðal íslenzkra sálma, og um leið eitthvert allra fegrsta blómið, sem fram hefir sprottið í gróðr-reit bókmennta vorra. Nú eru, svo sem kunnugt er, á þessu ári, í næsta mánuði, liðnar níu aldir síðan Íslendingar sem þjóð beygðu sig fyrir kristin-

dóminum. Kristnitakan á alþingi árið 1000 er vitanlega langmerkasti atburðrinn í sögu þjóðar vorrar. Það vill þá sannarlega vel til, að hinn dýrmæti íslenzki sálmr birtist á enskri tungu, útbreiddasta menntamálinu í heiminum, í svo fögrum og fullkomnum búningi nú einmitt — á þessu júbíl-ári íslenzku kristninnar.

## Kirkjuþing í sumar.

Hér með auglýsi eg almenningi í söfnuðum hins evangeliska lúterska kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi, að næsta — sextánda — ársþing félagsins, sem samkvæmt ályktan síðasta kirkjuþings á að halda í Selkirk (vestan Rauðár) í Manitoba, verðr, ef guð lofar, sett í kirkju Selkirk-safnaðar fimmtudaginn 21. Júní þ. á., eftir að þar hefir farið fram opinber guðsþjónusta, sem byrja á kl. 10 árdegis.

Í sambandi við kirkjuþingið er ákveðið að haldnir verði sérstakir fundir út af málum Bandalagsins og sunnudagsskólans, og verða þeir sérstaklega auglýstir.

Trúmáls-atriðið, sem valið er til umrœðu á þessu kirkjuþingi, er *réttlætingin af trúnni.* Og heldr séra Jónas A. Sigurðsson inngangsrœðu í því máli.

Söfnuðir þeir, sem senda fleiri en einn erindsreka á kirkjuþing, gæti þess, að útbúa hvern þeirra um sig með sérstöku vottorði um lögmæta kosning hans, en láti ekki nœgja að senda eitt sameiginlegt vottorð fyrir þá, er fyrir kosning hafa orðið.

Winnipeg, 7. Maí 1900.
JÓN BJARNASON,
forseti kirkjufélagsins.

---

Eg skora alvarlega á embættismenn safnaðanna, að senda hinar venjulegu skýrslur um fólkstal, eignir, sunnudagsskólahald o. s. frv. til mín sem fyrst. Eg tek ekki á móti neinum skýrslum eftir 10. Júní, en læt þá skýrslur frá síðasta ári standa. Prestana bið eg einnig að senda mér skýrslur yfir missíónar-starf sitt fyrir 10. Júní.

Minneota, Minn., 5. Maí 1900.
BJÖRN B. JÓNSSON,
skrifari kirkjufélagsins.



,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada. — Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.